fótmál burt frá þeim, til þess á ný ad gánga útí stríðið. Hañ skélfur, hañ stríðir vid daudann, hañ hrópar til síns Föðurs med sárustu qvørtun og breñandi tárum. Hálfdaudur snýr hann til baka til vina sinna, og sjá! þeir sofa, þeir vóru svo syfjadir, ad þeir vissu ecki hverju þeir svörudu honum. Í þridja sinni geingur Jesús fram á stríðsplátzid til ad drecka þad eptir var þess bitra qvalaña kaleiks; og þá hann aptur fann sína Lærisveina í djúpum svefni, vekur hann þá og segir: o! viljid þér nú sofa og hvílast? gat nú Jesús med meiru umburdarlyndi, med meiri ástúd farid med sína Lærisveina? þeirra ítrekudu yfirsjónir þreytti hann ecki, þeirra yfrid stóra leti gjørdi hann ecki reidann. Í stadinn þess ad tilkyna þeim þeirra adgjætslu og umhyggju-leysi med þeim bitrustu brixl-yrdum, géfur hann þeim þær ástúdlegustu advaranir, og sýnir vid þá undrunar-verda þolinmædi. Hvad olíkir erum vér þér, vor Lausnari! hér í? tídum hofum vér þess varir ordid, ad þjánínganna þúngi vakti oss til óþolinmædi, og hvad brádlega gleymdum vér ecki í þrengíngunum godsemi og kjærleiks-skyldum vid vora medbrædur? því

lengur, sem vorar þjáningar viðvara, því möglnnarsamari og styrdgédjaðri pløg. um vér að verða, því strángar dœmum vér vina vorra mißstu ysirsjónir, því óánœgð. ari verðum vér með allt það í kríngum oss er: að minnsta kosti meinum vér að ega sjálfskilið af þeim umburðarlyndi, þó vér í eymdum staddir hugsum ecki um aðra eñ sjálfa oss. Og skyldum vér þó ecki miklu framar sýna þessar kjærleikans skyldur brœðrum vorum, þá þú, vor Lausnari! ber svo mikla þolinmœði með oss í öllum vor. um breiskleika, og ecki burtkastar oss frá þínu augliti, þó oss hvað eptir annað yf. irsjaist? œ! hvað opt blandar sér ecki leti og hálfvelgja í vora Guðsdýrkun? hversu tíðum erum vér ecki tilfinníngarlausir og kald-gédja við íhugun þiñar pínu? hversu opt syfjar oss ecki, þegar holdið freistar vor? og hvað vildi þá af oss verða, ef að þú yfirgjæfir oss í eymdunum? œ! vér viður. keñum það, vor Frelsari! það er þín náð, sem enn þá viðheldur oss, sem endurnœr. ir og svo kroptuglega styrkir oss, sem með styrkri hönd kippti oss svo opt til baka frá fordjörfunarinnar afgrunni, í hvert vér, í vorum synda-svefni, nær því

vórum fallnir. Æ! hættú ecki, vor blessadi Frelsari! ad vaka yfir oss veikum, ad líta med miskunsømu lánglundar-gédi til vor aumra, og uppvekja oss af vorum dofinnleika svefni! Aldrei, aldrei nockurntíma rádi vort egid hjarta svo fyrir oss, ad vér géfum voru holdi tauminn. Sífeldt erum vér í mestu hættu staddir ad forgánga undir freistingunum, ef þú snýr þínu auga og þinni miskun frá oss. Vér selum oss á hendur þinni styrkjandi nád á freistinganna tíma. Hverstu audveldlega kunnum vér í umgengni med heiminum freistadir ad verda til synda, en vér vitum þó ecki hverjar freistingar oss á sérhverjum degi búnar eru. J ørugan trúnadar-trausti til þín, vor Gud og Frelsari! viljum vér útgánga í heiminn, og aldrei sleppa þér frá augum vorum, hvad sem adkémur. Og ef vér sjáum nockra af brædrum vorum og vinum ega ad strída vid þúngar freistingar, þá viljum vér, þad framast oss er møgulegt, leitast vid ad létta undir þetta strid; en séum vér ecki þess megnugir, viljum vér þó bidja fyrir þeim, hughreysta og hugga þá. Styrktu oss þar til, vor Frelsari! med þinni almegnandi nád!

## 5. Föstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar koma í Grasgardinn, (Matth. 26).

Varla var sá blódugi sveiti' þornadur af Jesú andliti; varla hafdi hann fundid minstu svíun qvala þeirra, sem á honum láu, fyrr enn nýtt áfall neyddi hann til ad sýna nýjann hetju-mód. A medan hañ eñ þá var ad hughreysta sína veiku vini, adkom þad augnablik, á hverju sjálfur hañ þurfti vid nýrrar hugstyrkingar. Þad sárasta, sem Jesú svo mæddum gat nú mætt, var þad, ad sjá Júdas siñ egiñ lærisvein koma, sem oddvita í óvina flocki, til ad forráda hann, sinn Herra og Meistara, í þeirra blódþyrstu Gydínga hendur. Hvílíkir sorgarþánkar er ecki náttúrlegt ad í Jesú sáln nú vaknad hafi, þegar hañ sá siñ vin og Lærisvein gjörast sinn svikara? Hvörsu munu ecki sjör-ráð þessi af sínum eginn Lærisveini hafa svidid hjarta hans, þessu vidqvæma, mañelskandi hjarta, hvörju svo nærri géck sérhver vina siña, jafnvel miñsta yfirsjón? med hversu medlídandi auga mun nú ecki Jesús hafa litid til Júdasar! Æ! gatstú þá, Júdas! sjed daudans ángist-

ina afmálada á Jesú ná-bleika andliti, sem eñ þá var sveitt þeim bloduga sveita, án þess ad skélfast? féckstú af þér eñ þá ad auka qvalir hans? gatstú litid augum til þíns saklausa Meistara, án þess ad láta þig binda í hans stad? gatstú sied hans andlits útlit, í hverju stód afmálad hans guddómlega sakleysi og rólegasta hugprýdi, án þess ad verda var hjá þér píñandi samvitsku-nøgunar? gatstu þañ-tinn nálægst þinn Herra, án þess ad falla vid sérhvert fótmálid til jardar? gatstú — o! þú gatst drýgt allt, eptir ad þú eitt sinn hafdir afhendt herradæmid yfir sálu þiñi þeim skamarleguſtu lastaña tilhneigingum. Samvitska þín var sofnud, hjarta þitt forherdt og oll rádvendnis tilfinníng af ásettu undirþryckt. Med mesta vidbjód vyrdum vér fyrir oss þeñann svikara; svona hefdum vér aldrei breytt, hugsum vér; aldrei hefdum vér svo skammarlega hondlad vid vorn Velgjorara, vorn Frædara og vorn vin; aldrei skyldum vér hafa svikid Jesúm; en — þeckjum vér þá líka rétt vort egid hjarta? þorum vér ad trúa vorn egin vitni og tilfinníngu um rádvendni vora? þó vér ecki hefdum drýgt þvílíkann glæp,

kunnum vér samt ad giora oss hluttakandi í vidlíku vondsku verki, svo minna á beri Er ecki voru hjarta þannig varid, ad þad elskar tídum skin-gœdi í stad þess sanna goda, og hversu skamt eaum vér þá til ad drýgja Júdasar synd? Trúa viljum vér ad sonnu samvitsku vitnisburdi vorum til þess, ad vér hefdum trauðlega framid slíkann glœp, sem Júdas framdi; en vér gétum uppá margann máta ordid Júdasar líkar. Mjog tídum latum vér oss locka til þess, ad verda otrúir vorum Lausnara, og hvad skédur, þegar vér fyrir godra daga, edur heimsins vináttu sakir, fleckum oss med viljandi syndum, nidurþoggnum samvitskunnar advarantr, og afneitum rádvendni? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér syndgum undir gudhrœdslu skini? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér leitumst vid ad skada vini hans, undir vinsemdar og kjœrleiks-verka útliti? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér oktum hans lœrdóm og pínu litils, edur fylgjum spotturum þeim, er vanvyrda hans kénningu? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér leidum adra til ad verda ótrúa og meinsœra vid Gud og hann. Framar viljum vér nú ecki áklaga Júdas,

nei! sjálfa oss viljum vér áklaga, O! vér berum eiñig svikult for-ráðandi hjarta í voru brjósti. Ecki nema nockur fá fót-mál høfum vér ófarin fram á lastanna vegi, til að fá náð Jesú svikara guðleysi. Látum því Júdasar dæmi þéna oss til viðvörunar, og umflýum með varbygð sérhvert tækisæri, sem vyrðist hættulegt vorum sálum. Aldrei skal elska til-ens jarðneska festa svo djúpar rætur í sálum vorum, að vér þess vegna gleymum vorri trú, samvitsku og sáluhjálp. En — vernda þú oss sjálfur best, vorrar trúar uppbyrjari og fullkomnari! frá því að yfirgéfa þig nockurn tíma, en aðhyllast þína kross-ovini! Fyrirgéf oss það, ef vér høfum híngað til gleymt þér, og misbrúkað þína náð! þú héfir einnig for-líkað fyrir vort óstøðuga og ótrúa hjarta; vertú oss þess vegna náðugur, og burt-kasta oss ecki frá þínu augliti!

## 6. Føstu-Hugvekja.

Jesús sýnir Almætti sitt, Jóh. 18.

Híngað til høfum vér Jesúm fyrir aug-um haft í sínum mesta vanmætti, undirþryécktañ af øllum þeim píslum, er

hañ þola hlant, sem mañkynsins borgunar-madur. En — nú fáum vér sjed nockurn geisla hans guddómlegu hátignar, vér sjáum hañ, sem hinn sterka Gud, er ecki þarf ad tala nema eitt ord; þegar hans óvinir skulu til grunna gánga; stór flockur hans óvina kémur med grimdar-fullum strids útbúníngi í Aldingardiñ, hvar Jesús var, til ad leita hans. Jesús geingur fram og adspyr þá: ad hverjum leitid þér? og þá þeir svara: ad Jesú af Nazareth, svarar hann þeim med hugprúdum djarfleika: eg er þad; en vid þetta ord hörfar þessi óbljúgi, þessi alvopnadi skari til baka og fellur til jardar. Hér fáum vér ad þeckja þig á ný, vor Lausnari! í þiñi guddómlegu hátign. Skomū ádur, þegar þú á fjallinu Olíveti varst til jardar nidurþryckttur undir Guds reidi byrdi, þegar þú skalfst þar og titradir, þá spurdum vér sjálfa oss í huganum: er þessi sá sterki Gud? er þad sá Herra, sem géfur öllum sképnum anda, líf og styrkleika? er þad hañ, vid hvers reidi-tillit allar skapadar sképnur mega forgánga, og sérhverr syndari huglaus verda? já, þú ert þad! þetta kraptaverk sýnir almætti þad, sem í þér bjó. Hvilíkann sigur vannstú nú

ecki á þínum fjandmönnum! þeir nálægjast þig og þinn litla verjulausa hóp, stólandi með oflæti uppá sína makt, uppá sinn liðsfjölda, uppá sín vopn; vissir um sigurinn gleðjast þeir þegar í vondsku sinni yfir því, að hafa með svikum yfirfallið þig, og dreift víðs vegar vinum þínum. En—hversu gjördir þu ecki þeirra áform til skammar! eitt orð af þínum munni fellir þá, og þar liggja þessir stolltu sjálfbyrgíngar, eins og þeir væru af reiðarslagi til jarðar varpaðir, en máttu þó vænta sér lífs á ný af þinni náð. Já, það var vors Jesú náð, að þeir, við hans orð urðu einúngis skélfdir, en ecki skaðaðir, að eins felldir til jarðar, en ecki eydilagdir. Hann sýndi þeim hvað hann gæti gjört, ef hann vildi brúka makt sína og almætti, en þeir blygduðust hverki við hans makt, né hrærðust við hans gæðsku; ódar enn þeim var géfið megn til að standa á fætur aptur, héldu þeir áfram sinn svikafulla fyrirtæki. Svikarinn, sem ecki lét sér aptra við það, sem hann sjálfur væntanlega mátti var verda við, ásamt hinum, er hluttakarar vóru með honum í sama vondsku verki, nálægaði sig Jesú til að kyssa hann, og géfa þar með fylgjurum

sínum til kyña, að nú væri tími til að grípa hañ, og í því sama þuñu þeir að, og logðu hendur á Jesúm. Þessir Jesú óvinir, eru lifandi afmálan allra Jesú og hans náðar foraktara; hvað opt leggur ecki Guð ovini sína í sóttar-sængina, eða niðurvarpar þeim og lægir móð þeirra við oñur tilfelli? hversu tídt leidir hann þá ecki rétt fram á grafar-backann, til að fá þá vakta af sínum svefnværðum við Dómsins og Eilífðarinnar skélfingar? en hversu sjaldan áviñur hañ það, sem hann ætlar til? varla eru þeir komnir til heilsuñar, varla hafa þeir stigið heilum fæti á jord aptur, fyrr enn þeir halda áfram í sinni fyrri vondsku. Þjófurinn brúkar þá krapta, sem honum á ný vóru géfnir, til svika og prettvísi; hinn lausláti heldur áfram í hans villudýrs gyrndum; morðínginn og mannhatariñ endurnýa þeirra fjandskapar áreitni; sá andvaralausi útevs sínum gomlu eiðum og blóti á móti Guði og moñum; en hvílika orsök hafið þér ecki, sem þannig farið að ráði ydar, til að skélfast yfir sjálfum ydur, ef þér haldið áfram að gánga eptir ydar óumvendta hjarta! hvílík qvol og ángist mun þá ecki eitt siñ yfirfalla ydur, þegar Drottinn

kémur med miklum krapti og dýrd? ef hans óvinir máttu lída nidur vid þad, ad einúngis eitt ord útgéck af hans munni, þá í hans djúpustu nidurlægíngu, hvad meinid þér þá af ydur verda muni, þegar hann birtist, sem Dómari? ó! hversu ógnarlegt mun ydar fall verda, þá hans óttalega rödd talar til ydar: eg er sá, sem þér hafid spottad og foraktad; eg er sá, sem þér ílla hafid medhöndlad og misþyrmt mínum trúudu; eg er sá, sem þér hafid krossfest med ydar syndum; farid frá mér allir þér, sem ílla hafid breytt! en fyrir oss, sem trúum á Jesúm, er nærsta gledilegt ad hugleida hans adferd vid sína Lærisveina, og hans umhyggju fyrir þeirra velferd. Þeir vóru nú í mestu lífshættu staddir; því ecki var annars von, enn óvinir þeirra mundu ætla sér ad taka þá einnig til fánga, svo þeir í einu fengju útrudt bædi Höfundi þess lærdóms, sem þeir svo mjög hötudu, og öllum hinum, er til hans höfdu hníaid. En—Jesús tók sína hjálparlausu vini í sína vernd, hann sá, ad þessir sér áfstfólgnu, væru ecki hugadir nóg ad gánga í daudann med sér; hann vissi hvad á því reid, ad þeir lifdu þegar hann væri á burt, af því þeir vera skyldu

vitni hans upprisu; þess vegna frelsaði hañ þá úr þeim lífsháska, sem þeim var búinn, en sjálfur frambýður hann, hugprúður og með hetjumóð, hendur sínar til að bindast, líkhama sinn til þeirra grimmilegu meðferðar og líf sitt í dauðañ. O! hversu mikill, hversu ounmræði'egur kærleiki! hversu finnum vér hjarta vorn léttir, þegar vér hugleiðum þetta, og tileinkum oss þær huganir, sem vér í sérhverju lífsins tilfelli megum draga hér af! nú kunnum vér vera ogvíðnir, hversu margir óvinir, sem setja sig með allri siñi makt á móti oss; þó oss séu búnar óttalegustu háskasemdir, í hverjum vér mættum forgánga, því Drottinn er vor styrkur og vor hjálp í sérhverri neyð, sem oss mæta kañ. Vér höfum á umliðiñi æfi vorri reynt það tíðum, hversu máttugur vor Frelsari er til að hjálpa, jafnvel þá, þegar oss sýndist öll hjálpræðis von þrotin, ætíð viljum vér því á hañ vona; alla tíma mun hann vel við oss gjöra; en kañské einhverjar aðrar sorgir megi olla oss óróesemi; máské vér qvíðum barna vorra oförum; máské vinir vorir séu í eymdum staddir; máské Jesú kirkju þreyngíngar og áráslr olli oss angursamra þánka; ecki

vilium vér vid neitt þvilíkt láta vorn hug-
mod hverfa; vorra vandamanna sakleysi
og lucku kjör mun Drottinn taka í sína
varatekt; sitt ord, sína limi og sína gjör-
valla kirkju mun hann vardveita á móti
ollu óvina yfirfalli. Ef hañ var mátt-
ugur til í sinni niðurlægíngu að láta sína
Lærisveina vera óhrærda af fiandmaña
hendi, hversu miklu framar mun hann
nú, upphafiñ í hædirnar, fá gjört óvina
ráð til skañar. Guds stadur mun stöd-
ugur standa med borgurum sínum, því
Drottiñ er iñan múraña, og því mun hañ
standa. Herrans óvinir hljóta að verda
huglausir, og allir sterkir mega falla þá
hañ lætur sig heyra. Drottiñ Zebaoth
er með oss, Hallelúja!

## 7. Föstu-Hugvekja.

Jesú fríviljuglega afhending í óvina hendur.
Jóh. 18.

Einhverr hiñ hugannar-ríkasti og mik-
ilvægasti sañleiki, sem Jesú Krists
Píslar-saga kéñir oss, er sá: að vér meg-
um vera þess fulltrúa, að Jesús frívil-
juglega géck út í sína pínu. Hefdi hans

vina ad eins uppákomid af náttúrlegum orsøkum, máttum vid sífeldt vera í efa um þad, hvert vor fridþægina vid Gud, hefdi med hans vinu ordid afrekud; en gjørvøll Jesú Píslar-saga gétur oss óræk rek fyrir því, ad allt hvad hann leid, hañ hañ lidid fríviljugur, og eptir fyrifram ákvørdudu rádi; til ad sañfærast um þeñañ fríañ og fúsañ vilja hans, þarf einúngis ad skoda, hversu fúslega hañ flýtir sér til daudans; hañ gat varnad því ad óvinir hans, sem vid hans eina ord féllu til jardar, á ný uppstædu, og legdu hendur á hañ; hañ gat útbúid þennañ litla hóp vina siña med guddómlegum krapti og látid þá eydileggja óvini sína. Ecki nema eitt ord hefdi þad kostad hañ, ad láta Engla fylkíngar framkoma, sem med ósýnilegri makt haldid hefdu hans óvinum til baka; hversu audveldlega gat ecki Náttúruñar Herra brúkad allar høfudsképnurnar til sinna hefndar verkfæra? en—hvad þurfti hañ añara hjálpar vid? hans egid í honum búanda almætti, med hverju hañ sigradi fjølda óhreiña anda, med hverju hañ leiddi þá daudu til lífsins, med hverju hañ svo opt gjørdi ad engu siña motstandara flærdar-hrecki, og

rádslaganir, þetta sitt guddómlega al-
mætti gat hann einnig nú brúkad til ad
gjöra sinna mordíngja vondsku til skamm-
ar. Ad hans bodi hefdi jördin opnad sig,
og uppsvelgt þennann vondskufulla sam-
svarna flock; ad hans bodi hefdi eldur af
himnum fallid, og fortært þeim; já,
hans einsamalt augna tillit hefdi gétad
gjört þessa vopnar-djörfu ad engu; en
hann brúkar nú ecki þessi medøl til frelsis
sér, þad fór svo fjærri, ad þegar lærisvein-
arnir vildu taka til varnar med vopnum,
þegar Pétur jafnvel særtt hafdi einn í ó-
vina flockinum, þá bannadi hann honum
þessa vørn, og læknadi hann særda þén-
ara. Øll adferd hans, þegar hann var til
fánga tekinn, sýnir fúsann vilja hans, til ad
offra sér sjálfum til frelsis heiminum.
Skal eg ecki drecka þann kaleik, segir hann,
sem Fadir minn hefir géfid mér? og hverju
bitur og fullt mældur var ecki kaleikur
sá, er fadirinn hafdi honum útmældann,
enn þó var hann viljugur til ad drecka hann!
já, hans ómælanlegi kjærleiki til þeirra ó-
luckulegu Adams nidja, var svo sterkur,
ad hann beiddi um þenna bitra kaleik; hann
vildi ecki láta þyrma sér, hann vildi ecki
hafa gledi, heldur lída, hann vildi verda

daudans fórn fyrir mannkynid; hvílík hugprýdi! hvílík elska! Gudi sé lof! nú þurfum vér eckt ad skélfast fyrir Dómarans reidi vegna vorra synda; nei, fríviljuglega hefir Jesús tekid á sig þad straff, sem vér áttum ad lída; viljugur hefir hann, eptir Guds alvísa rádi, bætt fyrir vorar syndir. Med fúnum og fúsum vilja géck hann á móti dauda sínum, og undirgéckst þad allt, sem útkrafdist til mannkynsins endurlausnar. Þótt vér heldum engin önnur rök fyrir vorri réttlætíngu, mættu þó þessar röksemdir fá oss styrkt í trúnni á þann krossfesta: vér erum sáttir vid Gud, því vor Jesús leid viljugur í vorn stad; med fúsum vilja tók Jésús uppá sig þær bitru þjáníngar. En — því erum vér ecki eins sinnadir og Jesús, þegar smávegis mótlætíngar hitta oss? því tökum vér eckt uppá oss eins fríviljugir Jesú kross? því berum vér ecki eins stödugl yndir þjáníngarnar? hvad vantar ecki á þad, þegar vér, möglandi og naudugir, tökum á móti þeim mótlætíngum, sem vér fáum ecki hjá komist? Jafnvel lítilsverd ógédfeld tilfelli fylla vort hjarta ángist og

óánægju. Ef vér líktumst Jesú, mundum vér hegda oss odruvísi: undir byrdi hinna þýngstu mótlætínga, sem oss legdust á herdar, mundum vér segja: skal eg ecki drecka þann kaleik, sem Fadir minn hefir géfid mér? Þegar Gud straffar oss hardt, mundum vér þá ecki íhuga þad, ad Guds fødurhønd leggur þá byrtíngu á oss, sem þó, hversu þúng, er hún vera kynni, er eins og eckért ad reikna á móti því, sem Jesús leid? Hver ein hjáníng, sem oss er útmæld, er í raun réttri ecki þúngbær, því hún varir ecki lengi, og má ecki kallast verd þeirrar dýrdar, sem vid oss skal opinberast. O Jesú! géf oss svo fúsann vilja, sem þú hafdir, til ad leggja oss undir hverskyns eymdir, sem adkoma kunna, og styrk þú oss til ad bera þær; þad hlýtur ad gánga oss, eins og þinn vilji hefir áqvardad. Vér egum kannské fyrir høndum enn þá, og megum vænta þess svo lengi vér lífum hér, ad reynast í mótlætínganna skóla. Mæti oss eitthvad motdrægt á vorri pílagríms ferd, viljum vér med trúndu og audmjúku hjarta segja: verdi þad svo, vér viljum lída þad! Drottins hægri hønd kann øllu um ad breyta. Loksíns megum vér þess full-

trúa vænta, að vér munum, eins og Jesús, frelsast frá ellu voudu, og inngánga í það hvíldar og eilífrar rósemdar ríki, hvar Guð mun oss endurnæra, eptir allar útstaðnar mótlætíngar þessa lífs.

## 8. Fostu-Hugvekja.

Jesús yfirgéfinn af Lærisveinunum, Marc. 14.

Hvað heyrum vér! Lærisveinarnir yfirgéfa sinn Meistara og flýa nú frá honum! þeir, sem fyrir stuttu síðan höfðu svarið, að þeir væru reiðu búnir að gánga í dauðann með honum; hver var orsök þess, að Lærisveinarnir svo allt í einu gleymdu sínum dýru heityrðum? hversu fengu þeir svo bráðlega sinnaskipti, og létu hugdyrfð fyrir hugleysi, styrkleika fyrir veikleika, kjærleika fyrir kaldsinni? Líklegt mátti það þykja, að þessir einustu vinir, sem Jesús átti á jörðunni, mundu gæta í því skyldu sinnar og þacklætis við hann, að létta hvað þeir gátu undir hans margfoldu þjáníngar, að minnsta kosti verið

nálægir sjónar-vottar ad písllum hans, því eckert meira krafdi Jesús af þeim; þeir áttu ecki ad líða sjálfir, heldur einúngis sjá hvad hann leid; þeir áttu ecki ad deya med honum, heldur einúngis fyrir hans krossins dauda, gjørast hæfilegir til ad verda hans kross prédikarar. Ef ad vér hefdum verid í þeirra stad, hvad mundum vér ecki hafa gjørt fyrir vorn Meistara? vér vildum hafa þurkad hvert tárid af kinnum hans, og huggad hans sorgmædda hjarta; nei! aldrei skyldum vér hafa forlátid hann; vér skyldum hafa fylgt honum frá Grasgardinum til þínghússins; frá þíngúsinu til Golgata, já! képpst eptir þeirri æru, ad bera hans kross eptir honum í Símons stad, og máské, ad vér hefdum gengid í daudann med honum. Þannig þenkjum vér nú, þá vér álengdar skodum í huga vorum Jesú pínu, en — mundum vér hafa verid hugdjarfari enn Jesú Lærisveinar, hefdum vér sjed uppá pínu hans, eins nálægir og þeir vóru; mundum vér hafa verid hugadri enn þeir voru, þá allt þad þeir sáu afmáladi þeim opinn daudann fyrir augunum. Vér ímindum oss tídum daudann, sem ýfrid léttann þegar vér erum heilbrygdir,

og meinum oss enn þá eiga lángt til grafarinnar. Enn munum vér verda vid sama hugar-far, þegar vér erum ad henni komnir, edur hættulegur siúkdomur gefur oss ad skilja, ad vér egum skammt ad henni ófarid? þannig siáum vér, ad Jesú lærisveinar mottu bad fyrifram litilsverdt, og sig fullstyrkva til ad gánga í daudann med honum; þeir ígrunduðu hverki, þegar þeir fám tímum ádur hétu honum því, hversu bitrar hans qvalir verda mundu, né hvad veikir þeir siálfir vóru, til ad standast þær píslir, sem honum vóru búnar. Pad ofdirfsku traust, er þeir höfdu á eigin kroptum sínum, blindadi svo þeirra hjörtu, ad þeir gættu ecki síns vanmáttar, síns hugleysis né andvaraleysis; og þetta er sama ástandid, í hverju vér erum staddir. Nú erum vér nógu djarfir til ad heita öllu, en hversu litid verdur ecki úr oss til ad halda bad, þegar á skal reyna? O! allt ofmargir af vorum med-kristnum hafa sannarlega sama ásetning, sem vér meinum oss nú ad hafa; stólandi uppá sína eigin krapta, voga þeir sér úti þann freistingafulla heim. Peir hugleida ecki hversu audveldlega tilloekanir og afvegaleidslur fá munu enn þá sigur unnid yfir þeirra

hjörtum, en þegar þeir eru fallnir fá þeir það fyrst þeckt, hversu veikir, fordjarf-aðir, og laus - gédja þeir eru. O! vor Frelsari! vér viðurkénnum það, að vort hjarta er bæði dárlegt og duglaust. And-veldlega fær það skéð, að vér yfirgéfum þig og gleymum þeirri trygð, sem vér höfum svarið þér; hvað mundi af oss verða, ef þú krefðir af oss að taka hlut-deild í þiñi pínu? mundum vér þá verða nógu viljugir og sterkir til að fylgja þér á eptir, þegar gylda ætti að bera á eptir þér krossins þúngu byrði? hvað mundi ské, ef þínir kross óvinir hæddu þig að oss nærveranda í gledi - samqvæmum? mundum vér þá hafa nóga hugdirfð til að viðurkéña þig opinberlega, og verða þér staðfastlega trúir? hvað mundi ské ef að ríkdómur, metorð og lystisemdir á eina síðu lockuðu oss, en fátækt, vanvyrða og píslir á hina síðuna ógnuðu oss? ættum vér nú til hiñar lucku að vinna, ef vér yfir-gæfum Jesúm, en hljóta þessa ólucku, ef vér værum honum trúir? hvað mund-um vér gjöra, værum vér þannig staddir? mundum vér verða eins edalþenkjandi og Móses, að vitni Páls Postula, að halda Krists vanvyrðu fyri stærri ríkdóm

enn heimsins andæfi? hvad mundi ské, ef vér mæta ættum lángvarandi harmqvælum, mundum vér þá aldrei efast um Guds verud, edur leita annarstadar huggunar eñ hjá hönum? æ! hversu mikla orsök høfum vér ecki til ad hrædast vort egid hjarta! Þad gétur skéd med óteljanlegu móti, ad vér verdum Jesú eins ótrúir og hans lærisveinar, og ef vér røtum í þá ólucku, ad verda óstødugir í Jesú kjærleika, þá erum vér staddir í stærstu hættu; því ef vér eitt sinn høfum gleymt honum, þá má þad audveldlega ad bera, ad vér þá, þó vér forrádum hann ecki af ásetturádi, þó samt af hugleysi og hálfvelgju afneitum honum, og ad minsta kosti gleymum honum vegna lauslyndis. Hvar viljum vér þá finna frelsi vorum sálum, endurnæríngu undir þjáníngunum, rosemi fyrir samvitskuñar nogun, djorfúng í bæniñi, huggun í daudanum og fríun í dóminum? Ðyrmæti Lausnari! vernda þú oss med þiñi nád frá þessari miklu ólucku! vidhald þú oss í elskunni til þín, og lát oss aldrei af ásetníngi missa hana, hverki í þinum vondu né gódu døgum! Vilji vort óstøduga hjarta snúast frá þér, þá vyrdstú, almáttugi Jesú! ad halda oss vid þig stødugum

og styrkja oss med þínum volduga armlegg! Láttu hverki lucku né vanlucku, hverki manna-ótta né manna-gunst, hverki drambsemi né dugleysi, hverki dauda né líf, nockurn tíma skilja oss vid þig! Skyldi vort hjarta verda máttfarid, og vort hold vanmegnast í stridinu, æ! svo styrktu oss og upplífgadu med voninni um þá kórónu, sem þú hefir heitid þínum trúu eptirfylgéndum! Herra Jesú! vér lofum því, ad yfirgéfa þig aldrei! vér endurnýum þann eid, sem vér unnum í vorri skírn, og lofum þér því, vegna þess óútmálanlega kjærleika, sem þú hefir audsýnt oss, vegna þinna bitru qvala, vegna þins dauda á krossinum, af einlægu hjarta lofum vér því, ad vera þér óbrygdanlega trúir hédan af til æfiloka.

## 9. Föstu-Hugvekja.

Guds áqvardada rád um Jesú dauda, Jóh. 18.

Á medal þeirra, sem vid Jesú fordæmíngu breyttu eptir spilltum heimsins visdómi, var Kaiphas einn hinn helzti. Ecki gætti hann, sem Dómari, þess, hvad lögum og réttvísi væri samqvæmt, heldur hins einúngis, eins og annar slúnginn

bragda-refur, er horfa mundi til eginn haásmuna. Hañ hafdi fest sér þad þánka-mid: ad betur færi ad einn saklaus dæi, heldur enn ad heil þjód skyldi til grunna gánga; fyrir eins manns sakir. Eptir þeskari þánka reglu, meinti hann þad gagnlegra fyrir landid ad Jesús dæi. Svo ógudlegur, sem þess þánki var, svo brúk-adi Gud hann þó til framqvæmdar sinn, frá eilífd áqvardada rádi, um Jesú dauda, og þetta vísdómsfulla og heilaga rád Guds, viljum vér nú í rósemi hugleida, oss til nytsemdar. Vid Jesú pínu hafdi engin blind hendíng stad, þad skédi ecki af neinu óforvarandis tilfelli, ad hañ mátti þola þá edur þá vanvyrdu, þá eda þá pisl. Allt skédi hér, rétt eins og þad eptir Guds rádi var ályktad, og oll atvik sameinudu sig til ad opinbera Medalgángarann á millum Guds og manna, í Jesú píndu persónu. Strax, þegar hañ afhendti sig í hendur óvina siña, og hans Lærisveinar vildu med makt hafa forsvarad hañ, gaf hañ þeim ad skilja: ad þetta væri Guds áqvardada rád; hvernig skyldu—sagdi hañ—Ritníngarnar añars uppfyllast? svona hlýtur ad ské! Þad sama er ad segja um Jesú dauda; þad mátti þañig

ské, ad Messías med þessum hætti en engum ödrum skyldi daudañ lida; og svo litilsverdt, sem þad sýnist: á hverjum stad, á hverri tíd, af hverjum orsökum einhver oñur mañeskja deyr, svo mikilvæga má þó álíta alla þessa atburdi vid Jesú dauda. Eptir Guds rádi var tídin áqvordud nær Frelsariñ skyldi deya; hann mátti eckí deya fyrr eñ sá tími kom, á hverjum hañ deydi, af því þad var naudsynlegt ad hañ sýndi sig ádur, sem Messías, og fullkomnadi allt þad, sem honum var fyrisett. Þegar í barnæsku mátti hañ verda lifi svíptur af fjorrádum Heródesar; en hefdi þad skéd, þá hefdi hañ ecki fengid gjört heimiñ farsælañ med sínum lærdómi, sínu dæmi og kéñíngum; ecki uppfyllt fyrisagnir Spámañaña; ecki lidid svo qvalafullañ dauda, sem fortakslaust krafdist af heimsins Endurlausnara.— Sømuleidis opinberadi vísdómur Guds sig í því, ad Jesú daudi bar ad rétt undir Páskana. Fregnin um pínu hans og dauda, gat á engum tíma fljótar og almeñilegar útbreidst, eñ á þeirri tíd, þá er mörg þúsund Gydínga vóru samankomnir til Jerúsalem frá mørgum fjarlægum lands álfum. Eda, var þad ecki sam-

blóda vísdóml Guds, ad sá sem med Páskalambinu var fyrirmindadur, skyldi á somu tid og þessi offur-dýr framfærd voru fyrir Gud, fullkomna sitt offur? eptir Guds radi var stadurinn ásvardadur, hvar hañ deya skyldi, ecki mátti þad ské, ad Messías væri líflátiñ í svo litlum og andvyrdilegum stad, sem hans fædíngar stadur var, heldur átti sá að vera stadurinn, hvar hañ endadi líf sitt, þar, sem hann svo optlega ádur kénnt hafdi, þar, sem hañ gjort hafdi svo mörg kraptaverk; sá stadur, hvar allar fórnir og opinber gudsþjónusta átti ad framfara; sá stadur, sem í sambandi stód, vid svo mörg öñur lønd, sa skyldi vera staduriñ, hvar vor Medalgángari lidi sínar bitru píslir; en hvørs vegna skyldi hañ enda sitt líf utan borgar á fjallinu Golgatha? Páll leysir úr þessari spurníngu: hverra dýra blod— segir hañ—sem iñborid verdur af enum ædsta Kéñimañi í hid heilaga fyrir syndirnar, þeirra somu hræ skyldu uppbreñast utan herbúdaña; fyrir því hefir eiñig Jesús, svo hañ helgadi folkid fyrir sitt egid blód, utan borgarhlida látid sitt líf. Eptir Guds rádstofun var þad ályktad, hverjum dauda Jesús skyldi deya; þad

var krossins daudi, sem vor Frelsari hlaut ad líða; þessi dauddagi var ad sönn einhverr hinn qvalamesti, sem sinnast mátti, en því undrunarverdari er sú rósama þolinmædi, med hverri Jesús þoldi hann án allrar mögglunar, og því dýrmætara má oss vera þad þolgædis dæmi, sem hann þar med hefir gésid oss. Hvílíkur Jesú dauddagi var einnig ádur fyrirmindadur, því eins og Móses uppreisti eyrorminn í eydimörkinni, svo skyldi Mannsins Sonur upphefjast á krossinn, til þess, ad allir þeir, sem á hann trydu ecki skyldu fortapast, heldur hafa eilífa sælu. Eptir Guds rádi, vóru þeir áqvardadir, sem sviptu Jesúm lífi; hann skyldi líflátast af hverjutveggja því folki, er á þeim tídum bygdu jördina; þetta átti ad þéna til sönnunar því: ad eins og Gydíngar og Heidíngiar vóru undir bölvuninni, svo skyldi Messías afreka hvérin-tveggjum blessunina. Eptir Guds rádi var þad áqvardad, hvad af Jesú dauda fljóta skyldi: hann átti— eins og Esajas Spámadur fyrisegir— ad sjá sína lyst og hafa nægtir; med sinni vidurkénningu skyldi hann, sá Réttláti, gjöra marga réttláta; honum skyldi géfast mikid herfáng, og sjálfir þeir sterku

skyldu géfast honum að herfángi; hann skyldi oðlast fjolda afqvæmis, sem honum þjónaði, og hans miklu gjorninga skyldu menn tilkynna barna-bornum. Þessa spádóms uppfylling er sén í vors dýrmæta Endurlausnara persónu, og sérhverr, sem með athygli aðgætir þetta, má þar við upphvattur verða til að tilbiðja speki Guðs, og prísa hans elskufullu ráðstofun. Já, alvísi, náðugi Guð! í djúpustu auðmýkt tilbiðjum vér þitt vísa ráð, sem ályktaði vors Frelsara dauða! sannarlega er þitt ráð undarlegt, og þú framqvæmir alla hluti dýrðlega. Nu megum vér, fyrir Jesu dauða, fullvísir vera um vora friðþægíngu. Forgéfins hefir Guð víst ecki gjort þvílíka ráðstofun; forgéfins kunni vor Jesús ecki að deya svo sérlegum og óvenjulegum dauða; forgéfins er það ecki, að spádómarnir um Jesú dauða eru svo ýtarlega uppfylltir. Nú erum vér fulltrúa, já, lifum og deyum vísir um það, að vér, fyrir vors Endurlausnara dauða, erum fríaðir frá ollu straffi; en því dýrmætari og ómetanlegri á þessvegna hans dauði að vera oss; æ! því skyldum vér nú syndga svo mótþróanlega á móti Guði, að vilja gjora að engu

með ydruna' leysti Jesú dauða, er hañ í vorn stað leið! einnig má vor dauði oss líka dýrmætur vera; sá sami vís-dómur, sem áqvarðaði allt hvað viðbar við Jesú dauða, mun og þannig haga öll-um atvikum við vora burtför frá heimi þessum, sem oss best hentar; hañ hefir á-qvarðað vorn dauða dag, og niðurraðað öllu fyrifram þañig, að oss sem léttbær-ust verða mætti vor síðasta stund. Máské vér deyum á vorum blómstrandi aldri, máské og komnir á efri aldur; það skal engrar áhyggju auka oss. Tímiñ, á hver-jum þú, góði Guð! hefir áqvarðað oss að deya, er víst hiñ hæfilegasti; staðurinn jafnvel, hvar vér deya skulum, er af þér fyrísiedur, hvert heldur vér deyum á förnum vegi, í voru húsi, á meðal vorra vina eður óvina, í voru föðurlandi, eður á framandi stöðum, það er oss allt hið sama; vér kunnum að deya rólegir og hólpnir á hverjum helzt stað, sem áqvarð-aður er oss að dauða-stað, þá vér einúngis deyum, sem rétt kristnir, en kannské það gjört oss qvíða, að vér vitum eckí sjúkdóm þañ eða dauð daga, sem enda á vort líf; en því skyldum vér, fyrir þá skuld, bera á-hyggju! vors lífs Herra hefir áqvarðað

oll atvik vors dauda, eptir siñi alvísu gædsku; bad skédur ad hans rádi, hvert heldur vér deynum brádum dauda, ellegar eptir lángvinnañ sjúkdom; hvert heldur med hægari tilfinníngu, edur mikilli pínu; einig fyrir því, sem fliota kynni af dauda vorum, hefir Gud borid þá rísustu umhyggju. Nú þegar hefir hañ ætlad litiñ hvíldarstad andvana líkhama vorum; nú þegar hefir hañ huggun geymda vinum vorum, er harma munu vora burtfor. Hversu ánægdir mega vér þá ecki vera med þína-rádstefnu, alvísi Gud! hversu rolegir og gladir kuñum vér þá ecki úr heiminum útgánga! Þér, vor Lausnari! þockum vér alla vora lífs lucku og vora sídustu rosemi! vertú ofs nádugur á þessum vorum sídustu lífs-stundum, vegna þíns saklausa, fridþægjandi dauda! miskuna þig yfir ofs, ó Jesú!

## 10. Fostu-Hugvekja.

Jesú hugprúda forsvar fyrir Kaiphasar Rétti. Matth. 26. Jóh. 18.

Í þessari Jesú adferd siáum vér þañ áviñing, sem god samvitska og hjartans sakleysi géfur, sérdeilis á neydariñar

tíd. Sú fyrsta hugleidíng, sem hjá ofs vakna má vid sjón þessa ens áklagada, er óneitanlega þessi: hverʃu æruverdugt er hid lídanda saklevsi! Jesús stód hér framí fyri þeim yppurstu Prestum, Skriftlærdum og Oldúngum folksins; þetta samqvæmi var ad ytra áliti mjög æruverd samkunda, en eptir innvortis sinnislagi þeirra, samansafn skinhelgra hræsnara, svikara og mannhatara; hañ vissi hvers hañ hafdi ad vænta af þessara manna vondsku, þared Kaiphas, frumqvodull þessa blód ráds, var þess forstjori; hañ, sem laungu ádur hafdi svarid Jesú dauda í hjarta sínu; þessi madur setti nú upp þad dómara yfirbragd, sem réttlæti elskar, og til ad sýna, ad hañ fordast vildi allt hefndar-girnis skin, spurdi Jesúm um hans kéñíngu og þann fjolda lýds, er hann fengid hafdi, sem tilheyrendur. Jesús, sem þeckti síns Dómara dula tilgáng, sá grant þessarar spurníngar undirferli, og svaradi heñi því med þeirri einurd, sem enginn, nema sá saklausi, hafa kañ, og med hvílíkri speki, sem einúngis mátti stad hafa hjá honum. Um sitt gjorvalla framferdi mátti hann skjóta til vitnis alþýdu-róms, og þeirra manna, er hann heyrt

höfdu; á medal þeirra jafnvel, sem fellá vildu nú yfir hañ dauda dóm, vóru nockrir þeir, sem sjónar-vitni verid höfdu ad framferdi hans. Hann hafdi kénnt opinberlega, og eckért í leyndum talad þad, sem ecki var samhljóda hans opinberu kéñíngu, því hverr sá, sem íllt hefir adhafst, dregur sig helzt í hlé, en hinn, sem gott gjördi, lætur sig sjá fyrir almeñíngs augum, og gjörir sín verk opinberlega. Vér viljum leida oss þad í huga, ad vér værum þeir, sem mæta skyldu fyrir veraldleguin Dómara, eda réttara sagt, fyrir Guds Dómstóli, hvar vér ættum ad forsvara vort framferdi; mundum vér þá eins óskélfdir og Jesús sá, oss afsakad fyrir þeim ákjærum, sem oss mættu þar? Æ! hversu lítil eru vor gódverk í samanburdi vid þad ílla, sem vér höfum adhafst! hversu margir mættu þá ecki ásaka oss, sem vér höfum hneixlad med vorri breytni, styggt í ordum og kjærleiksланst vidhöndlad? Þad mátti nú géfa Lausnara vorum yfrid stóra hugsvölun, ad hann gat med mestu hjartans rósemi skodad allar athafnir síns umlidna lífs, og engrar einustu var ordid, er ecki stofnadi til edl-

íngar heimsins velferdar. Hverſu ítar-
lega ſem hann próſadi ſitt líferni, fañ hañ
ſig allt hafa rétt gjørt á móti Gudi og
mønnum; hann var ſér einkis breſts eda
breiſkléika medvitandi; hann gat því o-
hræddur mætt fyrir Rétti óvina ſinna.
Audſært er nú hér af, hverſu mikilsverd
gód ſamvitſka er, og hverſu ſá, hverjum
ſamvitſkan um eckert bríxlar, hafi litla or-
ſøk til ad láta ſér hugfallaſt vid þad íll-
gjarnaſta baktal; enginn, nema ſá rád-
vandi ſannkriſtni, fær ſhndann ſvo ſtórañ
hugmód vid áfelli rángra Dóma. Hon-
um liggur þad í léttu rúmi, þó hañ færd-
ur verdi fyrir njaña dóma; hvert honum
er hróſad af einum, ellegar laſtadur af
hinum, því hvert heldur hann mættr æru
eda vanæru, íllu eda gódu umtali, huag-
ar hañ ſig vid þad, ad hañ fái ſinn rétt hja
Gudi, og ad heimſins almeñilegi Dóms-
dagur muni ſaklenſi opinbera. Hér í
heimi er ecki fullkomins réttlætis ad
vænta, en þegar ſá ſaklauſaſti á medal
allra mannanna barna, hlaut ad mæta
ſem ſakamadur fyrir ógudlegra rádi, ætti
oſs þá ad bregda vid, ſem af engri full-
kominni dygd høfum ad hróſa oſs, þo vér
lída mættum kjærleikslauſa doma og íl-

giarnt baktal? nei, við hvílíku megum vér ætíð búast í þessum heimi, en án þess vér látum þesskonar dóma skélfa oss, skal sú vera vor sífeld ástundan, að varðveita góða samvitsku fyrir Guði, og þá mun sá þánki styrkja oss: Drottinn er sá, sem dæmir mig. Hvílík heppni er það ecki, að fá með sañi sagt: einkis erum vér oss þess meðvitandi, er ollað fái oss fordæmingar á Dóms degi; vér erum oss ecki þess meðvitandi, að vér með ásetníngi hofum forsmáð vorn Lausnara, misbrúkað hans friðbægíngu eða vanvyrdt hans kénníngu. Vér erum oss þess ecki meðvitandi, að vér viljandi høfum forsmáð nockurn eða steypt í ólucku. Það er vor hrósan — segir Páll Postuli — sem er vitni vorrar samvitsku, að vér høfum í heiminum framgengið í einfaldleika og Guðs grandvarleleika; en — með ollu þessu erum vér þó ecki réttlátir fyri Guði. Þitt auga, alltsjáandi Guð! sem skoðar grant vors hjarta huldustu fylgsni, sjer þess óteljandi bresti og gétur auglýst þær syndir í fari voru, sem vér þeckjum ecki sjálfir. Vér fengjum því ecki staðist fyrir þínum Domi, ef vor Jesús tæki ecki vorn

málstad, og gjördi sitt réttlæti vor vegna hjá þér gyldandi. Vertú oss, vor Gud! fyrir hans sakir nádugur í þínum Domi! og þegar vort hjarta áklagar oss fyrir þér, þá láttú oss frikénnda verda vegna þess blóds, sem hann einnig úthellt hefir fyrir vorar syndir.

## II. Föstu-Hugvekja.

Péturs huglevsi, Jóh. 18.

Ef vér hefdum átt ad dæma eptir þeim hetju-huga, sem Pétur sýndi, þegar Jesús var til fánga tekinn, og eptir þeim heityrdum, sem hann ádur géfid hafdi, mættum vér þenkt hafa, ad hans stödug-lyndi og trúmeñska varid hefdi því meir, sem háskinn vóx, er Jesus var staddur í: en hversu snögglega hefir hann nú fengid skiñaskipti! nú, þegar þess var ad vænta ad hann sýndi hugprýdi verdur hann hug-laus; hann miñtist ad soñu heityrda siña, snýr því til baka af flóttanum, og fylgir Jesú eptir, en eckí nema álengdar, af því hann óttast somu hættu, sem hans meist-ari er staddur í. Otti fyrir meñum sýnir sig í atbofnum hans og tali; hann sam-lagar sig hópinum, svo hann því sídar

þecktur yrdi. Þad sýnist ad soñu vera ofurhugi, sem dreif hañ til ad fylgja Jesú bundnum eptir inn í Kénnimañá-hofdíngjans stofu, en þad var ofdyrfska, því lastverdari, sem hún var meiru hugleysi blondud. Þad var ofdyrfd, ad voga sér í þad hættu-strid, ad raunalausu, hvar hann mátti vita sér ósigur buiñ; þad var ofdirfd, ad sýna á sér útvortis hugdyrfsku, en búa í hjartanu yfir megnum ótta. Hversu mjog megum vér því ecki vaka yfir hjarta voru, og leitast vid ad sigra þann ángistarsama ótta, sem oss svo tidt yfirfellur, og ollir því, ad vér hindrumst frá ad fordast þad vonda, en ydka gott? ollir því á tídum ótti fyrir monnum, ad vér gjorumst Jesú Evangelió ótrúir, og forsómum skyldu vora af qvída fyrir álasi edur athlátri manna? er þad ecki ótti fyrir ysirfallandi eymdum, sem dregur hiarta vort frá því trausti, er vér áttum á Gudi ad hafa? er þad ecki ótti fyrir daudanum, sem gjorir oss hañ svo skélfilegann, ad oss þegar hverfur hugur ef vér hugsum til hans? er þad ecki þræls-ótti fyrir Gudi, sem fær oss svo ákaflega skélfda vid sérhvern hans stroffunar dóm, og nidurslær oss til jardar vid sérhverja hættu? er þad

ecki ótti fyrir Helvíti, sem aptrar oss ad sonnu ad fremja stór glæpi, en upphvetur oss þó ecki til ydni og godverka? Opt hofum vér kannské leitast vid ad dempa þennann ótta, strída á móti honum, eda ad ollu fá hann nidurbrycktañ; en hversu ávaxtarlausir urdu ecki allir vorir vidburdir? þessi ótti yfirféll oss jafnódt aptur, þó vér meinutum oss hafa hann sigrad. Æ! oss auma! hverr vill frelsa oss frá þessum ótta? þú, vor Jesús! sær þad eiñ gjort; tilgángur þinnar komu i heiminn og þín pína fullvissar oss um þad, ad vér finna munum hjá þér rósemi fyrir sálu vora. Þegar samvitskan skélfir oss fyrir hegníngu Guds, hversu rolegir megum vér þá ecki verda, þegar vér trúum á Jesúm, fyrir hvers fridþægíngu vorar syndir eru afmádar? þá fær allt, sem ádur var oss óttalegt annad útlit; vort mædusama líf, verdur oss vegur til fullkomnunar; þær háskasemdir, sem umkríngja oss, medalid til vorrar trúarstyrkíngar; vor daudadagur verdur vor lausnardagur, og rotnan líkhama vors, er tilreidsla undir þá komandi forklárun. Þegar vér þañig vyrdum fyrir oss þetta, sem oss var svo óttalegt, hverfur hitt, sem ádur

ógnadi oss. Veki vor vanmáttur og enmidir ótta í voru hjarta, þá styrkjum vér oss í trúnni á Jesú náð. Viljí qvídi fyrir missir þeissa heims forgengilegu muna gjöra oss órólega, hreisumst vér af von osþnilegra gæda, sem oss eru ætlud á himnum, um hver Jesú pína géfur oss fullkomnustu vissu; engu ad sídur er oss þad naudsynlegt, til egin varhygdar, ad bera sífeldt forsjálann ótta, og fyrifram búast vid mótlæti, sem oss máské mæta kunni. Hefdi Pétur fyrifram betur adgætt hugleysi sitt og þá hættu, sem hann stofnadi sér í, mundi hañ traudlega hafa látid sigrast vid fyrsta freistinga áfall. Flestar mótlætingar, sem oss mæta, verda þvi tilfinnanlegastar og skjædarstar, ad þær koma óvart. Oss er þvi mjøg svo naudsynlegt ad venjast vid, ad setja oss fyri sjónir midt í vorum lystisemdum og velgengni þau mædu tilfelli, sem kynnu ad mæta oss, og segja til sjálfra vor: nú lifi eg ánægdur og frí fyrir allri áhyggju; en hversu brádum gétur ekki sá tími ad borid, sem fylli sálu mína ángri og órósemi? nú er eg hughraustur og hefi nóga djørfúng til mótstødu hverju helzt freistinga áfalli; en hversu snarlega fær ekki

það hættu tilfelli aðborið, sem gjöri mig duglausann? nú elska eg Jesúm og hans kross; en hvörsu fljótt má ecki heimsins umgengni leiða mig afvega til að verða hans kross óvinur? nú hefi eg viðqvæmt hjarta; en hvörsu auðveldlega má það ecki ské, að því lengur, sem eg þjóna ránglætinu, því harðgéðjaðri verði eg og tilfinníngarlausari? nú er eg heilbrygður; en hvörsu skyndilega kann ecki hættulegur sjúkdómur að leggja mig í gröfina? Að öllu leiti fáum vér aldrei vorn ótta sigraðann, á meðan vér búum á þessari jörðu. Vér erum ætíð umkríngdir óvinum og háskasemdum, sem mega halda oss síhræddum um sjálfa oss. Kom oss því, vor Guð og vor Frelsari! veikum mannsképnum til hjálpar með þínum almáttuga krapti! Vertú vort ljós, vor sáluhjálp og vors lífs kraptur, þá mun enginn ótti fá svo skélft oss, að vort hjarta dragist frá þér! Varðveittu oss fyrir öllum þeim freistínga áföllum, sem oss kynnu að skaða, en láttu oss þjóna þér með dygðugu og lastvöru framferði, án þrældóms ótta, alla vora lífdaga; þá er oss vís hin sæla dýrðarvist á himnum.

## 12. Föstu-Hugvekja.

Jesú þolinmæði við hans óvina álygar. Matth. 26.

Svo opt, sem vor Lausnari gengur fram á stríðs-völlinn, sjáum vér hañ koma þaðan krýndañ heiðri og æru, jafnvel þá, viñur hañ dýrañ sigur, þegar hañ sýnist sigraður. Hans blóð-þyrstu óvinir höfðu með snidugasta undirferli búið öll brögð, er þeir meintu að fá hañ fángaðañ með. Utbúnir með brixlyrðum, af hverjum þeir væntu sér hagnaðar; fjölda falsvotta feingu þeir framleidt, hverra vitnisburður verka mætti blóð-dómiñ, er gánga skyldi yfir Jesú. En hvar vóru í það siñ vitni hans sakleysis og góðgjörðasama kjærleika? hvar vóru þeir, er reynt höfðu sjálfir hans undrunarverðu hjálp; því framkomu þeir nú ecki, né hroktu með eigin dæmum Jesú fiandmaña vitnisburð? nú var þó tími til, að fjeldi aunnra, er reynt höfðu Jesú meðaumkunarsömu hjálp, hefðu með hacklætis-tárum og soñum vitnisburði leidt Jesú sakleysi í ljós; því komu þeir ecki og sögðu með edla huaprýði: hesst Jesús, sem svo ílla er meðfariñ, hefir ecki verðskuldað hvað þér við hañ gjörið; mér

hefir hañ að bæn miñi géfið heilsuna aptur; mér hefir hañ géfið mitt andvana barn aptur lifandi; mig hefir hañ með einu almættis orði frá líkþrá hreinsað; fyrir hans hjálp varð eg, sem var mállaus, talandi; daufur heyrandi; halltur rétt gángandi; mér hefir hañ fyrirgéfið min afbrot! mundi ecki þessi sambljóða þacklætis vitnisburður hafa mátt frelsa þañ saklausa Jesúm, eða þacklát kjærleikans rödd halltra, blindra, daufra, spítelskra og svo margra fleiri aumra, hærra kuña að láta, eñ mañvondskuñar ljúgandi áklagan? ó! engiñ af þessum lætur sig nú sjá, engiñ þeirra vogar að forsvara siñ velgjörara, hañ þarf ecki heldur þessa forsvars við. Hans sakleysi sigraði án allrar annarar hjálpar, jafnvel hans óvinir sjálfir hlutu að hjálpa til sigursins. Var það ecki sigur fyrir þañ saklausa Jesúm, að svo mikið ómak, sem óvinir hans gjörðu sér fyrir að uppljóstra um hañ allskyns logun lasti, er þeir uppspuñið fengu, að engum vitnum, sem þeir að því framleiddu, samanbar? var það ecki sigur, að Jesús þagði til allra logiña sakargifta? sakleysi hans þurfti enga afsökun; það var öllum augsært. Við Jesú sakleysi gleðjum vér oss; því

ef vér skyldum álítast réttlátir fyri Guds Dómi, hlaustú saklaus ad finnast fyrir Gudi og mönnum. Þitt réttlæti er vor huggan, þegar vort hjarta fordæmir oss, og samvitskan áklagar oss. Æ! hversu olukkulegir mundum vér ordid hafa, þegar vér á sídan mæta ættum fyrir þínum Dómi, ef allar vorar syndir, oll söklausra tár, sem vér höfum áreitt, hrópadi hefnd yfir oss? hvers ættum vér þá, eptir verdskuldun, ad vænta, nema fordæmingar? Lofadur sértú ad eilífu, o Jesú! fyri þitt sakleysi! þess vegna megum vér nú vona ad úrskurdast saklausir í Dóminum. Lofadur sértú einnig fyrir þessa þína pínu, sem þú boldir med svo rólegum hetjuhuga undir þjáningum þinna qvalara! ó! hvernig fánm vér þitt þolgædi nógsamlega undrad! ekkért fékk bifad þína rólegu sálu, sem styrktist af þínu sakleysi. Hin miskunarlausasta medferd fékk þig ecki sviptan rósömu stödugl yndi; þú þegir, svarar engu; þetta er allt þitt forsvar, oll þín hefnd! þessa dygd viljum vér af þér læra, vor Frelsari! einkis viljum vér meta vanvyrdu þá, sem oss mætir óforþént. Vér viljum læra ad þegja, því máské vort tal leidi oss til nýrra synda

Vér viljum med hógværu umburdarlyndi hugbreytast gégn vorra óvina áráðum. Fordæmi oss ecki vort hjarta, hösum vér djorfúng ad mæta ollum vorum baktolurum og ofsóknurum. Med adstod gudlegrar nádar viljum vér svo framgánga, ad heimsins gjorvoll falsvitni gégn oss verdi til skamar; og þó ad vort sakleysi ætti hér ofsókn ad lída, kémur þó sá dagur, þegar þad skal vinna sigur á ollum hatursfullum áklogunum.

## 13. Fostu-Hugvekja.

Medhendlan Jesú fyrir andlegum Rétti. Mark. 14.

Þetta var nú sá tími, þá Jesús vard hinn fyrirlitnasti allra, þegar hañ þola hlaut þvílika vanvyrdu, ad sérhverr snéri sér frá honum, og enginn vyrdti hann vidlits. Hañ leitadi ad huggara, er sig aumka vildi í pínu siñi, en þar var enginn, sem bæri medaumkun med honum, enginn, sem huggadi hañ. O! þú vanvyrdti og sár-píndi Jesús! hvílik undur, ad til þín skyldi enginn líta medaumkunarsomu sorgar auga! ad mínnsta kosti vildum vér ecki horft hafa tilfinníngarlausir á þína

þínu. Voru hjarta blædir, ef vér vyrdum fyrir oss þínar pislir. Eru þad ecki vorar syndir, er gjordu þér þvílíka mædu og erfidi! var þad ecki vor vanvyrda, sem þú barst? æ! lát vor augu fest vera á þessari sorgar-sjón, og þegar vér skodum þig í þinni vanvyrdu, láttu oss þenkja til sjálfra vor, berja oss á brjóst og gráta vorar syndir; hversu grimdarfulla vondsku máttir þú ecki útstanda, vor Jesú! allt sameinadi sig til ad auka þínar qvalir. Sá villuflockur ógndlegra maña, dyrfist ad hondla óheyrileaa vid þig; því hvad er grimdarfull misþyrming og medhondlan, sé þad ecki ad hrækja saklausum í andlit, ad slá hann med knefum, ad gjora hann ad spotti og athlátri? og þettad gjordu þessir vondskufullu þrælar vid þig, þú saklausasti og besti medal mañaña sona! þeir hrækja í þína ásjonu; þar hafa þá enn stadid máské storknadir blód-dropar, máské qvolin, þú leidst í Gras-gardinum hafi eñ á þinu andliti verid audsien. Ad miñsta kosti var afmálud í andliti þínu hin vinsamlegasta hógværd, hinn hreinskilnasti mannkjærleiki og djúpasta sorg; allt þetta féck ecki minnstu verkun gjort á þeirra hardsvírudu hjortum. Þeir slá

þig med knefum, þeir slá þig, sem engri manneskju nockurutíma amadir; þig, sem eckért hafdir adhafst, er inni til straffs; þig, sem aldrei begdadir þér odruvísi, enn sem manna velgjørari, og þó er enn ecki illska þeirra þar med sodd; þeir hæda þitt heilaga embætti; smánarleaustu bádúng gjørdu þeir þér med því ad byrgja þitt andlit, og krofdu, ad þú, sem Spámadur, opinbera skyldir, hvørr sá verid hefdi, sem á þér æfdi mannvondsku sína. En hvørnig hefdi farid, ef ad þú opnad hefdir þinn munn, og bodid: ad þessir audleysingjar samstundis medtaka skyldu forþént laun? en — þú leidst þessa vondsku med sérlegri þolinmædi. Frívilinaur bandstú þína ásjónu fram undir hrákana, og þinn líkama undir høggin. Æ! hvad gjørdi þig þá svo fúsann til ad gángast undir þvílíkar qvalir? hvad annad enn kjærleiki til syndaranna? Sakleysi þíns hjarta hugbreysti þig undir ollum þessum píslum. Þú hafdir fyrir augum þa blessun, sem spottyrdin, er þú þoldir, afreka áttu mannkyninu; þú vissir, ad engin vanvyrda, hversu stór, sem hún var, fékk hnydrad sakleysi þínu. Þú becktir dyrd þá, sem þér var geymd ad píslum þínum útstodnum,

þeſs vegna þoldir þú kroſsinn og aktadir ecki vanvyrduna. Þeſsi hádúng var einig af Guds áſettu rádi yfir þér ágvördud; engin hcadíng var þad, ad beſsar enn ecki adrar píníngar mættu þér. Vér ſetjum oſs fyrir ſjónir, ad þú, vid þeſsa vondiku medferd, hafir mátt lída fyrir þær ſyndir, ſem drýgjaſt á móti kriſtinni trú. Þú leidſt ſpádómana ad hádi hafda! nú finnum vér þad ecki undrunarverdt, ad ſvo margir ſpottarar med frekum hádyrdum vanvyrda þitt ord: med þeſsari þinni pínu hefir þú fríad þa frá ſtraffinu, ſem yfir þá hefdi átt ad koma midt í því, ad þeir ſvo illa vanbrúkudu þitt ord; burtryckjiſt þeir ecki ſkyndilega í reidi þinni, fái þeir enn þá tomſtund til ad ſnúa ſér til þín, er þad þinni fridþægjandi pínu ad þacka, þeſsari, ſem þú lída máttir, undir óvina þinna hádúngum. Framkomi hér blódþyrſtir, hardgédja og grimdarfullir miſkunarleyſíngjar, og ſjái vorn pínda Lauſnara; alla þá hardhýdgi, ſem þeir vid þá aumu í frammi hafdu, þau högg, ſem þeir ſaklauſu lída máttu af þeim, alla þá brædi, ſem þeir, vid minnſtu yfirſjon létu falla yfir hinn meinlauſa, fyrir allt þetta hefir hér ſjálft ſakleyſid hlotid ad lída.

